ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



MÁLGAGN KOMMÚNISTAFLOKKS ÍSLANDS / MARXISTA-LENINISTA 8.tbl. 5. árg. 1976.

VERÐ KR. 30.

**72 nýir áskrifendur frá áramótum**

STJÓRNMÁLAÁLYKTUN 1. ÞINGS KFÍ/ML ER Á BLS. 3.

# Kommúnistaflokkur Íslands/m-l stofnaður

Á stofnþingi Kommúnistaflokks Íslands/ml var Gunnar Andrésson rafvirki kjörinn formaður flokksins. Stéttabaráttan tók við hann eftirfarandi viðtal í tilefni flokksstofnunarinnar.

- Hvaða þýðingu hefur stofnun Kommúnistaflokks Íslands/ml? Er aðeins um að ræða nafnbreytingu á KSML eins og sumir segja?

GA.: Nú eru bráðum fjórir áratugir síðan Kommúnistaflokkur Íslands var lagður niður. Sá tími hefur verið tími vaxandi undanhalds og niðurlægingar fyrir íslenska verkalýðshreyfingu. Í stað baráttulínu í öllum málefnum verkalýðsstéttarinnar hefur leið undanhalds og stéttasamvinnu orðið aðalinnihald og "aðalsmerki" verkalýðsforystunnar jafnt á faglega sem pólitíska sviðinu. Pólitískt starf sem miðar að sameiningu verkalýðsstéttarinnar og endurreisnar baráttuhefða hennar hefur algerlega legið niðri þennan tíma. Þess vegna var stofnun Kommúnistaflokks Íslands/ml orðin knýjandi nauðsyn. Undirbúningsstarf að stofnun flokksins hefur fyrst og fremst hvílt á KSML og þau voru leiðandi í baráttunni fyrir endurreisn flokksins. Saga KSML var saga jafnt mistaka sem sigra. Helsta hindrunin sem við urðum að ryðja úr vegi var vinstri-einangrunarstefnan. Hún var einkennandi fyrir samtökin fyrstu árin, en með auk-inni pólitískri og starfrænni reynslu var hafin barátta gegn henni sem þróaði KSML áfram og hefur nú þróað kommúnísku hreyfinguna að því marki að stofnun kommúnistaflokksins var möguleg. Stofnun Kommúnistaflokks Íslands/ml er ekki nafnbreyting á KSML heldur táknar hún sigur yfir þeim öflum sem vilja afvegaleiða og múlbinda baráttu verkalýðsstéttarinnar.

- Hver eru að þínu mati helstu verkefni hins nýja flokks?

GA.: Verkefni flokksins eru að vinna fylgi baráttulínu innan fjöldasamtaka verkalýðsins. Þetta felst í því að vinna að því að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum og einangra og uppræta áhrif og völd stéttasamvinnunnar. Markmið okkar er að sameina verkalýðsstéttina til baráttu gegn auðvaldsþjóðfélaginu og kúgun þess á verkalýð og vinnandi alþýðu. Flokkurinn mun verja vígstöðu verkalýðsins í hvívetna. Vegna dýpkandi kreppu auðvaldsheimsins er sífellt þrengt að verkafólki og lífskjör alþýðunnar og möguleikar hennar til að framfleyta sér versnar stöðugt. Hættan á auknu atvinnuleysi fer vaxandi jafnframt því sem tekjumöguleikar minnka vegna minni yfirvinnu. Það er ljóst að núverandi fagleg og pólitísk forysta verkalýðsstéttarinnar er gjörsamlega ófær um að leiða baráttuna. Aðferð hennar er leið undansláttar og eftirgjafar sem sundrar verkalýðsstéttinni og kemur í veg fyrir markvissa baráttu. Kommúnistaflokkur Íslands/ml er baráttuflokkur íslenskrar verkalýðsstéttar en ekki vettvangur bitlingasafnara og atkvæðasmalara. Stefna flokksins skoðast í því ljósi.

- Hver er afstaða flokksins í stuttu máli til ástandsins í heiminum í dag?

GA.: Í dag er tímabil "fyrirstríðsára" en ekki eftirstríðsára. Forsendur stríðs og byltingar vaxa fram hlið við hlið. Flokkurinn stillir sér við hlið framsækinna afla um allan heim sem berjast gegn heimsvaldastefnu og afturhaldi. Það er sérstaklega mikilvægt verkefni fyrir flokkinn að berjast gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Það er knýjandi nauðsyn að

Framhald á síðu 3

## Stofnþingssamþykkt KFÍ/ML

Stofnaður hefur verið Kommúnistaflokkur Íslands/marxistar-lenínistar, (KFÍ/ML). Stofnþing flokksins var haldið í Reykjavík dagana 15. - 18. apríl og sóttu það 30 fulltrúar víðsvegar að af landinu. Kommúnistasamtökin m-l höfðu forgang um stofnun flokksins og eftir stofnun hans hafa samtökin verið lögð niður.

Með stofnun KFÍ/ML er tekinn að nýju upp sá þráður, sem slitnaði er Kommúnistaflokkur Íslands var lagður niður árið 1938, og byggir KFÍ/ML á þeirri arfleifð og þeim baráttuhefðum, sem eftir þennan fyrsta Kommúnistaflokk Íslands liggja.

KFÍ/ML byggir starf sitt og stefnu á marxisma-lenínisma kenningum Maó Tse-tungs. Það er stefna KFÍ/ML að sameina innan sinna vébanda alla marxista-lenínista á Íslandi og berjast gegn endurskoðunarstefnu, trotskisma og öðrum borgaralegum stefnum sem fjandsamlegar eru hagsmunum verkalýðs og vinnandi alþýðu.

KFÍ/ML gengur inn í hina marxísku-lenínísku heimshreyfingu undir forystu kínverska og albanska kommúnistaflokksins, og mun berjast af alefli gegn nútíma endurskoðunarstefnunni, sem sovéska sósíalheimsvaldastefnan hefur forystu fyrir og er hættulegasti óvinur alþýðu heimsins.

KFÍ/ML kallar íslenska alþýðu til árvekni gagnvart styrjaldahættunni, sem vígbúnaðarkapphlaup og samkeppni risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna - skapar, og bendir sérstaklega á vaxandi útþenslustefnu sovésku sósíalheimsvaldasinnanna.

KFÍ/ML mun sameina verkalýðsstéttina undir forystu sinni og leiða hana fram til sósíalískrar valdbyltingar í bandalagi við smábændur og aðra vinnandi alþýðu, og afnema þannig auðvaldsþjóðfélagið og reisa alræði öreiganna. Valdataka verkalýðs og vinnandi alþýðu mun marka endalok núverandi arðráns og kúgunar örfárra auðjöfra og auðhringa á yfirgnæfandi meirihluta þjóðarinnar, í krafti einkaeignar þeirra á öllum helstu framleiðslutækjum þjóðfélagsins. Þess í stað mun alþýðan, undir forystu verkalýðsins hefja uppbyggingu sósíalismans, sem byggir á samvinnu alls vinnandi fólks og sameign þess á framleiðslutækjunum.

Kommúnistaflokkurinn er æðsta skipulagsform verkalýðsstéttarinnar og þjónar eingöngu hagsmunum hennar, þess vegna kemur það í hans hlut að leiða og efla þessa baráttu, sem og aðra hagsmunabaráttu verkalýðsstéttarinnar.

# Baráttueining 1. MAÍ

Baráttueining 1. MAÍ

KAUPIÐ MERKI DAGSINS!

Í ár verða líklega þrjár göngur 1. maí. Ganga Baráttueiningar er eina gangan sem setur hagsmuni verkalýðsins og kúgaðra þjóða á oddinn. Margir aðilar og samtök hafa sameinast um aðgerðir Baráttueiningar, aðgerðir á grundvelli stéttabaráttunnar, gegn kjaraskerðingum, gegn útþenslu og yfirráðastefnu risaveldanna, gegn framvexti fasismans. STÉTTABARÁTTAN skorar á alla lesendur á Reykjavíkursvæðinu að skipa sér í raðir Baráttueiningar.

Sjá nánar á baksíðu.

## Hópur róttækra kvenna

Einn þeirra hópa sem mun taka þátt í aðgerðum Baráttueiningar 1. maí er hópur róttækra kvenna. Þessi hópur myndaðist eftir að Rauðsokkahreyfingin hafði hafnað tilboði um þátttöku í aðgerðunum. Þessar konur sem mynda þennan hóp eru úr ýmsum samtökum og hópum, þ.á.m. úr Rauðsokkahreyfingunni. Þær hafa bundist samtökum til þess að setja fram kröfur og vígorð kvennabaráttunnar á grundvelli stéttabaráttu.

Ástæðurnar fyrir því að Rauðsokkahreyfingin hefur hafnað því að taka þátt í aðgerðum á grundvelli stéttabaráttunnar eru fyrst og fremst þær að hreyfingin hefur í rauninni enga afstöðu til hinna ýmsu pólitísku mála sem Baráttueining setur á oddinn. Hreyfingin er ófær um að taka afstöðu fyrir hagsmuni verkalýðsins og baráttu kúgaðra, nema að takmörkuðu leyti. Þó svo að opinber stefna rauðsokka sé að berjast á grunni stéttabaráttunnar þá kemur skipulagsleysi og reikandaháttur þeirra (sem heildar) í veg fyrir markvisst starf og þannig verða yfirlýsingar þeirra marklausar.

Stéttabaráttan fagnar þessu framtaki þeirra kvenna sem taka þátt í aðgerðum Baráttueiningar 1. maí og hvetur allar baráttufúsar konur að ganga undir kröfum og vígorðum sem hópurinn setur fram á 1. maí.

-/hh

ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAOS TSE TUNGS!
Stéttabaráttan

8. tbl. 5. árg. 1976.
26. apríl.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands/ml. STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega. Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík. Sími: 27810. Gíró: 27810. Ábm: Sig. I. Andrésson

# Fram til baráttu

Kommúnistaflokkur Íslands/ml hefur verið stofnaður. Íslensk verkalýðsstétt hefur aftur eignast forystuafl í stéttabaráttu sinni, forystuafl, sem setur sér að sameina marxismann-lenínismann og íslensku verkalýðshreyfinguna, setur sér að sameina bestu hefðir íslenskrar verkalýðsstéttar og reynslu hinnar alþjóðlegu verkalýðsstéttar. Hin nýkjörna framkvæmdanefnd miðstjórnar flokksins hefur haldið fyrsta fund inn og lagt upp línuna fyrir starf flokksins í nánustu framtíð. Frammi fyrir íslenskum kommúnistum standa gífurleg verkefni á sviði skipulagsmála, skólunar og útbreiðslu. Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML setur eftirfarandi verkefni sem brýnustu viðfangsefni flokksins:

1. Að virkja alla flokksfélaga og fjöldann utan flokksins til náms í þingsályktunum fyrsta þingsins. Þetta felur ekki einasta í sér námsstarf, heldur fyrst og fremst pólitískt starf í anda stefnuskrárinnar og allra ályktana. Kommúnistarnir verða að vera óþreytandi í að færa út pólitík flokksins meðal fjöldans.

2. Að tengjast verkalýðsfjöldanum stöðugt nánari böndum og vinna allt flokksstarf í samræmi við vígorðið "Með fjöldanum fyrir fjöldann." Í starfi kommúnistanna verða þeir að fylgja reglunni að sameina verkalýðinn á grundvelli stéttabaráttunnar og mikilvægur þáttur þessa starfs er að halda starfinu að sameiningu íslenskra marxista-lenínista áfram af fullum krafti.

3. Að taka skipulagsmálin föstum tökum og öryggismál flokksins. Sérhver deild, sella og starfseining þarf að halda aðalfund sinn fyrir 15. maí og framfylgja skipulagssamþykktum þingsins í því efni. Í skipulagsstarfinu verða félagarnir og stuðningsmenn flokksins að leggja höfuðáhersluna á tvennt: eflingu Stéttabaráttunnar og baráttuna fyrir því að gera hana að sameiginlegu áróðurstæki, skipuleggjara og vinnupalli fyrir flokksbygginguna. Og hið síðara er að hefja baráttu gegn hvers konar frjálshyggju og fyrir lenínískum starfsstíl í flokknum. Flokkurinn getur því aðeins kallast kommúnískur, að félagar hans séu kommúnistar, þess vegna verður að leggja ríka áherslu á starfsstílinn.

4. Að efla tengslin við alþjóðahreyfingu kommúnista

5. Að byggja upp kommúnísk æskulýðssamtök.

Þetta eru mikilvægustu verkefnin í starfi flokksins í dag, og sérhver félagi verður að takast á við lausn þeirra af alvöru og hreinskilni. Kommúnistaflokkur Íslands/ml hefur rétt aðeins stigið fyrstu skrefin á braut byltingarbaráttunnar, við verðum öll að leggjast á eitt til að fylkja sífellt meiri fjölda fólks til baráttunnar með okkur. Fram til baráttunnar

25/4



HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórnir Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, Rvík, einnig í síma 27810
Reykjavíkurdeild: Lindargötu 15, sími: 27810.
Akureyrardeild: Guðvarður M. Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23, einnig pósthólf 650, Akureyri.
Suðurnesjadeild: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími: 2641.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Neskaupstaður: Stuðningsdeild c/o Messíana Tómasdóttir, Miðhúsum.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10, Hellissandi.
Eiðar, S-Múl.: Stefán Jóhannsson.

Hvar geturðu keypt Stéttabaráttuna?

SUÐURLAND:
Reykjavík: Rauða stjarnan, Lindargötu 15.
Bóksala stúdenta í Félagsstofnuninni v/ Hringbraut.
Einnig fæst blaðið nú í mörgum söluturnum.
Suðurnes: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26, Njarðvík.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Vestmannaeyjar: Guðrún Garðarsdóttir, Þorlaugsgerði.
Laugarvatn: Arnór Sighvatsson, Menntaskólanum.

VESTURLAND:
Hellissandur: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.

NORÐURLAND:
Akureyri: Guðvarður Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23.
Siglufjörður: Söluturninn við Aðalgötu.
Húsavík: Þórarinn Ólafsson, Sólbrekku 5.

AUSTURLAND
Borgarfjörður eystri: Guðrún Steingrímsdóttir.
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Miðhúsum.
Eiðar: Stefán Jóhannsson.

Íslenskir námsmenn erlendis.

Nú getið þið keypt Stéttabaráttuna hjá umboðsmönnum okkar í nokkrum borgum á norðurlöndum.

NOREGUR:
Bergen: Guðmundur Sæmundsson, A - 226 Fantoft Studentby, 5036 Fantoft.
Oslo: Katrín H. Andrésdóttir, Sogn Studentby 1310, Oslo 8.

SVÍÞJÓÐ:
Stokkhólmur: Magnús Sæmundsson, Sandstenvägen 89, 135 51 Handen.
Lundur: Jón Rúnar Sveinsson, Kämnärsvägen 5 D: 218 222 46 Lund.

DANMÖRK:
Århus: Magnús Þorgrímsson, Börglum Kollegiet v 444, Börglumsvej 2, 8240 Risskov.

## Rukkun

Félagar, áskrifendur. Þótt ótrúlegt sé þá eiga enn nokkrir áskrifendur eftir að greiða fyrir árið 1975. Það liggur í augum uppi að slíkt gengur ekki til langframa. Bregðist því vel við á næstunni þegar rukkarar blaðsins banka uppá hjá ykkur. Allir áskrifendur verða bráðlega rukkaðir fyrir fyrrihluta 1976 - því blaðið þarf fé til að koma vikublaðinu á laggirnar.

# Grænlandsvika í Norræna húsinu

Laugardaginn 24. apríl var opnuð í Norræna húsinu Grænlandsvika. Í því tilefni er hingað kominn 25 manna hópur frá Grænlandi, þ.á.m. eru listamenn, fyrirlesarar og tveir efstu bekkir kennaraskólans í Godthab ásamt skólastjóra sínum og einum kennara. Í Norræna húsinu gefst fólki kostur á að kynna sér grænlenska menningu. T.a.m. eru þar sýningar á grænlenskri myndlist eins og olíumyndum, grafík, tréskurðarlist, höggmyndum svo nokkuð sé nefnt. Í bókasafninu eru sýndar grænlenskar bækur og sýnishorn af grænlenskri blaðaútgáfu. Dagskrá grænlensku vikunnar er mjög fjölbreytt, þar verða erindi og kvikmyndasýningar um grænlensk málefni, og væntanlega fær fólk að heyra grænlenska söngva. Meðal þeirra grænlendinga sem hér eru staddir eru nokkrir sem hafa áhuga á að kynna fyrir íslendingum viðhorf grænlendinga til danskrar nýlendukúgunar, og munu þeir reyna eftir því sem kostur gefst að koma því inn í dagskrána. Verður að öllum líkindum mjög fróðlegt að kynnast því. Grænlandsvikunni lýkur 2. maí og verður Norræna húsið opið öll kvöld til kl. 23.00.

# Straumsvík:

Frá Straumsvík berast okkur þær fréttir að nú sé sem óðast verið að endurráða þá verkamenn sem sagt var upp störfum vegna samdráttar fyrr í vetur. Ástæðan er sögð tvíþætt: Margir hafa sagt upp störfum af eigin frumkvæði, og nú glæðast óðum söluhorfur á áli. ÍSAL hefur oft leikið þann leik fyrir samninga að bera sig illa og kvarta yfir samdrætti, en aldrei fyrr hefur þó verið gengið svo langt að senda mönnum uppsagnarbréf. Þetta sýnir okkur svo um verður ekki villst hversu atvinnuöryggi íslenskra verkamanna er lítið í raun, hvenær sem gróðahagsmunir atvinnurekenda krefjast þess er hægt að fórna verkamönnum eins og peði í skák, og bjóða þeim óöryggi atvinnuleysisins. Stéttabaráttan fagnar því að uppsagnir í álverinu skuli dregnar til baka, en beinir því jafnframt til lesenda sinna, að samfara dýpkandi kreppu og kjaraskerðingum megi búast við að það styttist í það að hefja verði víðtæka baráttu annars staðar til varnar rétti verkamanna til vinnu.

# Hvað þarf lítil stúlka í Sovétríkjunum að kunna

Á bakhlið sovésks almanaks sem helgað er konum á árinu 1976, er að finna upptalningu á þeirri kunnáttu sem litlum stúlkum ber að búa yfir. Við birtum hér þessa upptalningu, og það ætti ekki að vera þörf á að fjalla nánar um hana. Textinn útskýrir dyggilega viðhorf hins borgaralega þjóðfélags í Sovétríkjunum til hlutverks konunnar, og sýnir ljóslega hvernig sósíalheimsvaldastefnan reynir að innprenta börnum afturhaldssamar skoðanir á stöðu kynjanna:

"Það sem lítil stúlka verður kunna:

3. ára: Hún verður að kunna að klæða sig og þvo sér, hjálpa til við að leggja á borð og laga til í barnaherberginu.

4. ára: Hún verður að kunna að binda skóreimar, þurrka af ryk og vökva blóm.

5. ára: Hún verður að kunna að sauma hnappa, viðra sængur, þvo dúkkuföt og hjálpa mömmu við innkaupin.

6 ára: Hún verður að kunna að þvo upp, pressa föt undir eftirliti mömmu, sópa gólf, stoppa og baka formkökur úr tilbúnu deigi.

7 ára: Hún verður að kunna að þvo og saxa grænmeti í salat, velja rétt mjöl í graut, og sauma í náttföt og vettlinga.

8 ára: Hún verður að geta gert innkaup (brauð, mjólk), kunna að nota ryksugu, líta sjálf eftir skólafötunum sínum, sauma skyrtuermar og kraga, bursta kápu og skó.

9 og 10 ára: Hún verður að kunna að sauma útsaum, sjóða egg og kartöflur og þvo gólf."

(Þýtt og endursagt úr Klassekampen og Roter Morgen).

# Til baráttu á grundvelli stéttabaráttu

Kommúnistaflokkur Íslands (m-l) er sameiningarafl allra framsækinna afla á Íslandi. Efling flokksins er höfuðverkefni allra andstæðinga stéttasamvinnu og heimsvaldastefnu, þess vegna skorum við á alla þá sem vilja berjast gegn kúgun auðvaldsins í öllum þess ~~myndum~~ að taka þátt í uppbyggingu flokksins.

Útfyllið reitinn hér fyrir neðan og sendið til KFÍ/ML, pósthólf 1357 Reykjavík

nafn: ______

heimilisfang: ______

kaupst./sýsla/: ______

atvinna: ______

Miðstjórn KFÍ/ML mun hafa samband við þá sem þess æskja.

# Tillaga VSÍ um breytingar á vinnulöggjöfinni

"Það kann að hljóma einkennilega, en staðreynd er það samt, að eindregin ósk vinnuveitendasamtakanna er, að miðstjórnarvald Alþýðusambands Íslands verði aukið, annaðhvort með samningum milli verkalýðsfélaganna eða með breyttri vinnulöggjöf" (Jón H. Bergs, form. VSÍ).

"...Það er pólitísk heilbrigðisráðstöfun, sem enga þolir bið: Þjóðnýting stéttasamtakanna er brýn þjóðarnauðsyn" (fasistablaðið "Staðreyndir").

Jón H. Bergs, formaður VSÍ, hefur nú lýst því yfir opinberlega að samtök atvinnurekenda hyggjast berjast fyrir auknu miðstjórnarvaldi ASÍ-forystunnar. Þessi yfirlýsing er staðfesting á því að kapitalistarnir treysta því að núverandi forysta ASÍ dansi eftir þeirra pípu - og síðustu samningar ASÍ-VSÍ eru ótvíræður vitnisburður þess hverra hag Björn Jónsson og Co. bera fyrir brjósti.

Heilmikill áróður er nú rekin fyrir breyttri vinnulöggjöf-allar þær tillögur sem hafa komið fram opinberlega fela í sér stórlega skerðingu á réttindum verkafólks og eru skref í áttina að lama fullkomlega mátt þeirra sem baráttutækis fyrir bættum kjörum verkalýðs. Eins og málum er komið þá eru það bæði forysta atvinnurekenda og forysta ASÍ sem stefna að því að safna öllu valdi verkalýðshreyfingarinnar í hendur fámennrarklíku sem stýrir ASÍ. Svikamakk Björns Jónssonar og annara forystumanna verkalýðshreyfingarinnar verður æ augljósara, sífellt fleiri félagar verkalýðsfélaganna gera sér ljóst að þeir vinna gegn hagsmunum verkafólks. Það er því kjörin aðferð fyrir auðvaldið að lögbinda núna miðstjórnarvald ASÍ yfir allri verkalýðshreyfingunni, þannig væri hægt að tryggja svikarana í sessi og láta þá sitja með meiri völd en verkafólk hefur falið þeim sjálft.

## Samflotið.

Samflot verkalýðsfélaganna í samningum undanfarin ár hefur veitt forsmekkin að því sem koma skal. Samflotin hafa byrjað með því að ASÍ-forystan sest við samningaborðið án umboðs (hér má minna á Hornafjarðarráðstefnuna 1973.) og "þreifað" fyrir sér. Síðan hefur verið safnað umboðum og stofnaðar nefndir og baknefndir og loks öllu stefnt til sáttasemjara á Hótel Loftleiðum. Eftir að bráðabirgðaundirskrift liggur fyrir þá fara forystumenn hinna ýmsu félaga á fund meðlimanna og tala fyrir því að samningarnir verði samþykktir. Þessir menn hafa undanfarin ár unnið ljóst og leynt að því að skerða allt lýðræði innan verkalýðsfélaganna og stöðugt unnið að því að ræna baráttu verkalýðsins stéttarlegu inntaki. Þeir þykjast því nokkuð tryggir með að fá samningana í gegn, enda er þannig staðið að framkvæmd verkafalla að virkni verkafólks er lítil og baráttumarkmiðin óljós. Hefur því verið lítið um skipulagða andstöðu.

En þrátt fyrir slappa forystu þá hefur verkalýðurinn barist fyrir kjarabótum með verkföllum þótt árangurinn hafi verið rír að undanförnu. Með fyrirhuguðum breytingum á vinnulöggjöfinni hyggjast atvinnurekendur koma í veg fyrir verkföll og virkni verkalýðsfélaganna í þeim. Þannig koma þeir eftir öðrum leiðum að sama marki og ASÍ-topparnir, en VSÍ vill lögbundið "samflot" og bann við baráttu einstakra verkalýðsfélaga.

Það hljómar því ekki einkennilega þegar formaður Vinnuveitendasambandsins lýsir þeirri ósk sinni að miðstjórnarvald verði aukið innan ASÍ. Sterk verkalýðshreyfing er þyrnir í augum auðvaldsins, fasistarnir sem standa að baki blaðsins "Staðreyndir" eru hreinskilnari en talsmenn atvinnurekenda eins og sjá má á tilvitnunum í upphafi greinarinnar og segja beint út, að það beri að brjóta þau á bak aftur; þ.e. "þjóðnýta þau."

Framhald á baksíðu

# Stjórnmálaályktun 1. þings KFÍ/ML

Hérlendis hefur kreppan tekið að grafa um sig eins og annars staðar í auðvaldsheiminum. Verkafólk og öll alþýða verður að horfa upp á vaxandi samdrátt atvinnulífsins og minnkandi atvinnumöguleika, samtímis sem kjör þess eru skert óheyrilega með þeirri óðaverðbólgu sem gengur yfir eins og holskefla. Framleiðslukerfi auðvaldsins er að fara úr skorðum, og æðisgengnar tilraunir burgeisanna til að halda gróða sínum óskertum eru unnar fyrir gíg, en bitna þeim mun harðar á hinum vinnandi manni. Til að brauðfæða sig og sína, þarf verkamaðurinn að vinna lengri vinnudag en víðast erlendis og skuldabaggarnir aukast í sífellu. Vextir af lánum hækka stórlega og lán eru bundin vísitölunni og afborganir af þeim fara þannig hlutfallslega hraðar vaxandi en kaupgjaldsaukningu nemur. Framundan eru enn erfiðari tímar, þegar auðherrarnir geta ekki lengur hagnýtt sér vinnuafl verkafólksins til að skapa sér gróða og kasta því út á gaddinn. Atvinnuleysisvofan er þegar komin á stjá og í náinni framtíð má búast við því, að íslenskur verkalýður hljóti sama hlutskipti og erlendir stéttarbræður hans - að fá ekki að vinna fyrir brauði sínu vegna þess eins að burgeisarnir hagnast ekki nægilega á vinnu þeirra. Verkafólkið sem skapar gervöll verðmæti þjóðfélagsins, sem ber þjóðfélagið uppi á herðum sér, fær líka að bera byrðar kreppunnar. Þegar samdráttur framleiðslunnar nær ákveðnu marki, munu auðherrarnir viðurkenna vanmátt sinn, með því að loka verksmiðjunum, leggja togurunum og reka verkafólkið út í smánarlíf á atvinnuleysisstyrkjum. Verslanirnar og vöruskemmurnar eru yfirhlaðnar birgðum og vörum, svo mikið og skipulagslaust hefur verið framleitt að markaðurinn skreppur saman og framleiðslan verður óseljanleg. Gróðinn af striti hins vinnandi fjölda er slíkur, að burgeisunum tekst ekki að koma honum í lóg, arðránskerfi kapitalismans verður hemill á framþróunina. En vörurnar eru ekki framleiddar fyrir fólkið sem skóp þær, hversu mikil sem eymd hins vinnandi fjölda verður mun auðvaldið aldrei láta af hendi svo mikið sem eina örðu endurgjaldslaust af því, sem það hefur rænt frá alþýðunni. Ráð þess miða aðeins að því að viðhalda gróðanum, allt skal lagt í sölurnar til þess að arðræningjarnir þurfi ekki að draga saman seglin. Vöruverðið er stórhækkað, skattarnir auknir okurlán og glæpsamlegir vextir færast í vöxt, en kaupið stendur nánast í stað. Þetta eru ráð hinna ríku, til þess að framlengja arðrán sitt á verkalýðnum.

Og gagnvart þessu stendur hinn vinnandi fjöldi ráðþrota, sviptur samtakamætti sínum og skipulagsstyrk, ofurseldur geðþótta arðræningjanna. Verkalýðsforystan sem fjöldinn leitar til í bágindum sínum, telur úr baráttunni, sundrar samstöðunni og fjarlægist stöðugt lífshætti, siði og hagsmuni hins vinnandi fjölda. Hún hefur gleymt því, að tilveruréttur hennar er forysta fyrir hagsmunamálum félagsmanna sinna, gleymt því, að traustið sem margir verkamenn bera til hennar setur henni skyldur á herðar. Hún er löngu hætt að hyggja að hag og þörfum fólksins, hugur hennar stendur til þeirra forréttinda sem auðvaldsþjóðfélagið leyfir henni aðgang að. Foringjarnir hafa svikið okkur og lífshagsmuni okkar, fyrir molana sem burgeisarnir fleygja fyrir fætur sér, þeir hafa selt samtakamáttinn og skipulagsviljann sem býr í verkafólki. Andvirði þessa níðingsverks er sæti í þingsölum, embætti meðráðandans í bönkum og fyrirtækjum, þátttaka í fjárglæfrum og braski burgeisanna og réttur skósveinsins til að framfylgja skipunum húsbóndans. Þeir hafa svikið verkalýðsstéttina og gengið á mála hjá einokunarvaldinu, þeir eru ekki foringjar verkafólks heldur svikulir liðhlaupar, sem prédika uppgjöf, undanslátt og hugleysi. Enginn verkamaður enginn sjómaður eða annar vinnandi maður má leggja hagsmuni sína og lífskjör í hendur slíkra varmenna.

Kommúnistaflokkur Íslands/ml kallar sérhvern vinnandi mann til árvekni og baráttu gegn þessum svikurum. Hann hvetur verkafólk til að rétta úr bakinu og bindast fastmælum um að berjast gegn auðherrunum og linna ekki þeirri baráttu frammi fyrir úrtölum og varmennsku stéttsvikaranna. KFÍ/ML gengur í fylkingarbrjósti til baráttunnar gegn meinsemdum auðvaldsþjóðfélagsins og lýsir því yfir, að sá kostur sé einn fyrir hendi að svipta duglausa og svikula foringja forráðum en skipuleggja baráttu verkalýðsins á grundvelli marxismans-lenínismans. Íslenskur verkalýður á sterkar baráttuhefðir og voldugan mátt, sem býr í samtökum og samheldni stéttarinnar. Þeim sem sundra samtökum okkar skal verða rutt úr vegi, þeir sem veikja samheldni okkar skulu verða skotspónn hennar. Við þörfnumst samheldni og einingar, þess vegna fordæmir KFÍ/ML sundrungarstarfsemi verkalýðsforystunnar og berst fyrir því að fylkja verkafólki að baki sér, undir vígorðinu "Gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum!" KFÍ/ML snýst til baráttu fyrir sérhverjum hagsmunum vinnandi stétta, hann berst gegn dýrtíðinni, okrinu og skattaálögunum, hann berst gegn launalækkunum og svikasamningum, hann berst gegn uppsögnum og atvinnuleysi. Í þessari baráttu minnum við á, að þetta er einvörðungu varnarbarátta - barátta til að halda þeim kjörum sem auðvaldsþjóðfélagið veitir okkur, til að koma í veg fyrir að kjörin verði skert og lífshagsmunum okkar beinlínis ógnað. Þessi barátta upprætir ekki orsökina fyrir verðbólgu, atvinnuleysi eða okri - því orsökin er sjálft auðvaldsþjóðfélagið. Til þess að afnema meinsemdir auðvaldsþjóðfélagsins, verður að leggja það í rústir, aflétta arðráni manns á manni, auðvaldsins á verkalýðnum. Til þess verður verkalýðsstéttin að sameinast um flokk sinn - Kommúnistaflokk Íslands/ml til þess að bylta auðvaldsþjóðfélaginu og einkaeigninni á framleiðslutækjunum, en skapa þess í stað sósíalískt samfélag, þar sem hinn vinnandi maður er frjáls. KFÍ/ML hvetur allt stéttvíst verkafólk til að leggja hönd á plóginn í baráttunni, við erum fá og lítt skipulögð í dag en stöndum frammi fyrir voldugum og þrautskipulögðum óvini. En málstaður okkar er réttur og ekkert skal hindra okkur frá því að ná markmiðum okkar. KFÍ/ML kallar verkafólk til starfs og baráttu. Lifi samfylking verkalýðsstéttarinnar á grundvelli stéttabaráttunnar!

# Rauður vettvangur — Frá Lesendum — Rauður vettvangur

Tómas Guðmundsson:
IÐNEMASAMNINGARNIR

Í 2. tbl. 1976 af Nýja Verkamanninum skrifar GM grein um samninga þá er Kristinn Hrólfsson formaður INSÍ og Ragnar Halldórsson forstjóri ÍSAL gerðu sín á milli með dyggri aðstoð og við mikinn fögnuð ASÍ og VSÍ. Þar minnist GM á það að iðnnemar þeir sem áður fengu laun samkv. 4. taxta Einingar fái nú greitt prósentukaup (þ.e. ákv. prósentutala af kaupi sveina á 1. ári, þó svo þessi sveinataxti sé aðeins til á pappírunum). Prósentutölur þær sem GM nefnir eru ekki réttar. Hvernig á því stendur veit ég ekki, GM hefur haft fullan aðgang að nýundirskrifuðum samningum og veit ég að hann var búinn að kynna sér þá. Hið sanna í þessu máli er að þeir iðnnemar sem áður voru á 4. taxta Einingar fá nú greidd 76,3% á 1. ári, 84,4% á 2. ári, 96,5% á 3. ári og 98,3% á 4. ári. Hitt er svo annað mál að þær tölur sem GM nefnir í grein sinni, 50%, 55%, 60% og 65% af 1. árs sveinataxta, eiga við þá iðnnema sem fá greidd laun allt árið og kann það að hafa valdið þessum miskilningi.

Þó svo að GM hefði nefnt hærri tölurnar þá kemur samt út lækkun á launum iðnnema, en ég tel réttara að hafa það sem sannara reynist. GM minnist einnig á það að iðnnemar á Akureyri hafi stefnt formanni INSÍ norður hingað til fundar við sig um samningana. Það tókst þó ekki, formaðurinn sat sem fastast á höfuðbólinu sunnan fjalla og bar ýmsar ástæður fyrir sig. Þess í stað sendi hann hingað inn iðnnemann sem stóð að þessum svívirðusamningum fyrir hönd INSÍ. Haldinn var fundur í Iðnskólanum og var gaman að sjá hvernig meðlimir 3ja samtaka á vinstri vængnum, GM frá KSML, Þórarinn Hjartarson frá EIK(m-l) og Einar Steingrímsson frá KSML(b), tóku höndum saman og voru sem einn maður um það að kaffæra hreinlega fulltrúa INSÍ með mælgi sinni.

Ef þessi 3 samtök væru alltaf svo sammála, sem þessir 3 meðlimir þeirra þá yrði þessum klofningsvandræðum á vinstri vængnum brátt lokið, og það er trúa mín að svo geti orðið ef menn aðeins vilja sjá skóginn fyrir trjánum. Það geta þeir 100 iðnnemar sem þennan fund sátu örugglega borið vitni um.

Bestu kveðjur,
Tómas Guðmundsson

## Örstutt athugasemd frá GM

Þar sem grein mín um iðnnemasamningana birtist í Nýja Verkamanninum hefði verið réttara að grein Tómasar kæmi þar einnig. En þar sem NV er nú málgagn BSL tel ég rétt að birta hana í Stéttabaráttunni, og það að NV er yfirfullur af forgangsefni um 1. maí. Er þetta gert með samþykki Tómasar.

Þá vil ég hvetja fleiri iðnnema til að skrifa um nýgerða samninga um iðnnemakjör, sem þýddu, eins og kemur fram í grein minni í NV og þessari grein Tómasar, kauplækkun. Við getum ekki setið þegjandi um þetta alvarlega mál.

-/GM

Framhald af forsíðu

## Viðtal

opna augu allra fyrir því að Sovétríkin eru í dag árásargjarnt risaveldi sem alls staðar skarar glóð að eldi fasisma og einræðis. Í dag eru Sovétríkin helsta ógnun við frið í heiminum, og markmið okkar er að íslendingar skipi sér við hlið þeirra þjóða sem berjast gegn og afhjúpa stríðsfyrirætlanir risaveldanna tveggja, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna. Þetta þýðir að flokkurinn mun beina kröftum sínum að baráttu gegn aðild Íslands að hernaðarbandalögum og fyrir varðveislu sjálfsákvörðunarréttarins. Ísland tilheyrir íslenskri verkalýðsstétt og vinnandi alþýðu og markmið okkar er að hún ráði landinu og öllum auðlindum þess. Borgarastéttin er ófær um að vernda sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar. Hún mun selja hann ef gróðahagsmunir hennar krefjast þess.

- Eitthvað sem þú vilt segja að lokum?

GA.: Ég vil beina þeirri áskorun til allra sannra verkalýðssinna að þeir kynni sér stefnuskrá flokksins og gangi til liðs við okkur í baráttunni. Verkalýðsstéttin þarfnast sameiningar en ekki sundrungar og Kommúnistaflokkur Íslands/ml er eina aflið sem hægt er að sameinast um.

GERIST ÁSKRIFENDUR!

Á vegum BARÁTTUEININGAR verður ganga og tveir fundir. Að lokinni göngunni verður útifundur

Gangan hefst á Hlemmi.
Safnast verður saman frá kl. 13,oo.
Lagt af stað kl. 14,oo.
Eftir úti fundinn verður fundur í Háskólabíói. Hann hefst kl. 17,00.

Dagskrá útifundarins:

1. Ræða,
2. Hjördís Bergsdóttir syngur.
3. Fulltrúi Kommúnistaflokks Bretlands (m-l) flytur ávarp.
4. Ræða.
5. Þorvaldur Árnason stjórnar fjöldasöng.

Dagskrá fundarins í Háskólabíói:

1. Alþýðuleikhúsið.
2. Ræða.
3. Október-söngsveitin.
4. Örn Bjarnason syngur.
5. Fulltrúi Kommúnistaflokks Bretlands (m-l) flytur ávarp.
6. Sönghópurinn Við þrjú.
7. Grænlenskur sönghópur
8. Ræða.

Kynnir er Bríet Héðinsdóttir.

# Til íslenskra marxista-lenínista!



Kommúnistaflokkur Íslands/ml hefur verið stofnaður. Við stofnun flokksins var honum sett reglugerð og stefnuskrá sem byggir á marxismanum-leninismanum-kenningum Mao Tsetung. Reglugerðin myndar ramma hinnar leninisku flokksgerðar þar sem ákveðnar eru réttindi og skyldur félaga flokksins, og kveðið á um þau grundvallaratriði önnur sem eru þungamiðja leninisks starfstíls. Í stefnuskrá flokksins er sett fram almenn afstaða til allra helstu vandamála íslensku byltingarinnar, og þar er kveðið skýrt á um að leið Íslands til sósíalisma er leið vopnaðrar byltingar. Stefnuskráin sem heild er sigur yfir kenningum endurskoðunnarstefnunnar og endurbótastefnunnar og hún markar tímamót í baráttunni gegn áhrifum þessara borgaralegu strauma innan verkalýðshreyfingarinnar.

Kommúnistaflokkur Íslands/ml er flokkur íslenskrar verkalýðsstéttar, og markmið hans er að sameina innan sinna vébanda alla raunverulega kommúnista og veita leiðsögn baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu. Kommúnistaflokkur Íslands/ml er því sameiningarafl en ekki sundrungarafl.

Með stofnun Kommúnistaflokks Íslands/ml er grundvöllur þess hópaskipulags sem marxiska-leniniska hreyfingin byggði á brostin, og það er skylda sérhvers kommúnista að koma til liðs við flokkin og verja hann og efla. Þess vegna beinum við því til allra marxista-leninista sem enn standa utan flokksins að setja sig í samband við miðstjórn og ræða inngöngu í flokkinn.

Félagar. Íslensk verkalýðshreyfing þarfnast sameiningar en ekki sundrungar. Stefnuskrá og reglugerð flokksins veita svigrúm til að ræða þau ágreiningsefni sem kunna að vera til staðar, og með aðferð gagnrýni og sjálfsgagnrýni er unnt að leysa úr þeim. Það að eining skuli ekki vera til staðar í dag má ekki setja fram sem afsökun fyrir að vilja ekki einingu. Þess vegna: Fram til baráttu fyrir sameiningu allra sannra kommúnista innan Kommúnistaflokks Íslands/ml.

# „Snúum vörn i sókn"

## Ávarp flutt á verkfallsfundi á Akureyri

Í nýliðnu verkfalli héldu Baráttusamtök launafólks verkfallsfund á Akureyri. Þar fluttu félagar úr Alþýðuleikhúsinu efni og Benedikt Sigurðarson og Guðbrandur Magnússon fluttu ávörp. Við birtum hér ávarp Guðbrandar:

"Því hefur löngum verið haldið fram að engin barátta væri háð án vopna. Í auðvaldsþjóðfélagi eins og því íslenska er það svo að íslensk verkalýðsstétt á sér fá vopn sem duga í baráttunni við auðvaldsöflin. Eitt kröftugt vopn eigum við þó verkfallsvopnið. En þrátt fyrir að þetta geti verið beittasta vopn verkalýðsins, þá er nú svo komið að það er bitlítið og árangur verkfalla síðustu árin vegur lítið á móti verkföllum verkafólks hér áður fyrr á bernskuskeiði skipulagðrar verkalýðshreyfingar. Nú er svo komið að samningar fara eftir formföstum leiðum sem forysta ASÍ og VSÍ hafa mótað sameiginlega. Í stað þess að áður tóku óbreyttir verkamenn þátt í samningum þá er það nú hálaunaður verkalýðsaðall, fylgist lítt með því hvernig það er að lifa af skammarlega lágu verkamannakaupi.

Forysta ASÍ hefur orðið fyrir harkalegum árásum frá baráttufúsu verkafólki víða um landið. Er það ekki að ástæðulausu, en hinu megum við ekki gleyma, að þessi svokallaða forysta er kosin af okkur sjálfum. Okkur ætti því að vera í lófa lagið að þoka þeim burtu og setja í þeirra stað óbreytta baráttufúsa verkamenn sem skilja það af raun hvað það er að lifa af verkamannakaupinu. Þó svo að forystan sé baráttulöt, þá verður heldur engin barátta háð ef verkafólk flýtur sofandi með straumnum. Því meiri baráttu sem verkafólk í landinu sýnir, því meiri árangur.

Vinnulöggjöf sú sem nú er í gildi er vinnuveitendum fremur í hag en verkafólki. Þó er það, að nú er í undirbúningi ný vinnulöggjöf sem tryggir vinnuveitendum undirtökin í allri kjarabaráttu. Til að mynda gerir þessi nýja vinnulöggjöf ráð fyrir því að ASÍ fái samningsvaldið algjörlega í hendur sínar, þannig að færri möguleikar yrðu á því að verkafólk fái samningsréttinn beint í sínar hendur. Einnig gerir þessi nýja vinnulöggjöf ráð fyrir því að sáttasemjari fái mjög mikil völd. Hann gæti t.d. ef til kæmi frestað verkföllum ótrúlega lengi. Þessi nýja vinnulöggjöf myndi sem sagt taka af okkur bitið úr verkfallsvopninu og skerða samningsréttinn. Við verðum að vera vakandi í þessu máli og koma með öllum ráðum í veg fyrir að þessi vinnulöggjöf auðvaldsaflanna nái fram að ganga.

Verkfall það sem nú stendur yfir er ekki ósvipað verkföllum síðustu ára. Samningamakk og aftur samningamakk, en árangur lítill sem enginn. En til þess erum við hér samankomin í BSL til að breyta þessum gang mála. Við viljum baráttu fyrir rétti okkar og réttmætum kröfum, ekki linkind og undanslátt þann sem nú viðgengst.

Verkfall getur aldrei orðið kröftugt, ef því er ekki beitt af fyllstu hörku. Undanþágurnar gera ekkert annað en slæva bit verkfallsvopnsins og draga það á langinn. Verkfall á að vera fljótvirkt, þannig að það geri atvinnurekendum ljóst að verkafólki er alvara með kröfum sínum. Verkfall á því að lama atvinnulífið og verkafólk á að nota verkfallið. Við eigum að berjast af allri þeirri hörku sem okkur er eiginleg á meðan verkfallið stendur. Verkfall er þó ekki stríðið sjálft heldur stríðsskólinn, undirbúningur undir úrslitabaráttuna um það hver eigi að stjórna og móta þjóðfélagið; minnihlutinn eða meirihlutinn, verkafólk eða atvinnurekendur.

Í verkfalli eigum við að efla og treysta samstöðu verkalýðsstéttarinnar og hreinsa úr okkar röðum alla stéttsvikara, hinn uppkeypta verkalýðsaðal.

Við höfum ekkert með forystumenn að gera sem nota verkfallið aðeins sem baktryggingu í hlægilegu samningamakki sínu við atvinnurekendur fyrir luktum dyrum á Hótel Loftleiðum.

Við viljum baráttu, ekki undanslátt. Snúum vörn í sókn."

FRÁ FÉLAGI IÐNNEMA Á AKUREYRI

Á fjölmennum fundi félagsins sem haldinn var í Iðnskóla Akureyrar þriðjudaginn 16. mars var samþykkt eftirfarandi ályktun um nýafstaðna kjarasamninga:

"Félag iðnnema á Akureyri hefur aldrei gefið INSÍ samningsumboð né nokkra aðra íhlutun um samningsmál félagsins nú. Þar af leiðandi getum við ekki tekið minnsta mark á nýgerðum samningi, dagsettum 27. febrúar, um iðnnemakjör."

Stjórn F.I.N.A.

Tillaga VSÍ ... frh. af síðu 3.

Barátta á grundvelli stéttabaráttu

Það er aðeins ein leið til þess að berjast gegn tilraunum til að skerða réttindi verkafólks - leið stéttabaráttunnar.

Verkalýðurinn veður að ráðast gegn bandalagi verkalýðspáfanna og atvinnurekenda og sundra því, það er eina leiðin til þess að gera verkalýðsfélögin að öflugum baráttutækjum. Þannig getur verkalýðurinn brotið á bak aftur tilraunir burgeisanna til að breyta lögum um verkalýðnum í óhag. Barátta verður að miða að því að afhjúpa svikarana í verkalýðsforystunni og losa verkalýðshreyfinguna við þá.

GEGN STÉTTASAMVINNU ASÍ-FORYSTUNNAR!
GERUM VERKALÝÐSFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM!
VERKALÝÐUR GEGN ATVINNUREKENDUM - STÉTT GEGN STÉTT!

-/hh

# Tillaga til ASÍ

Nú hafið þið verið mikið á fartinni undanfarið vegna hækkana á vöruverði - sú einkennilega staða hefur komið upp, að traust ykkar á ríkisstjórninni hefur reynst of mikið. Hækkanirnar hafa komið örar og orðið meiri en þið sömduð um í mesta bróðerni við atvinnurekendur. En viðbrögð ykkar hafa verið nokkuð sérstæð, í fyrsta lagi stórar yfirlýsingar um málshöfðun vegna búvöruhækkana og í öðru lagi auglýsingabrölt ýmis konar. Allt soðið saman á kontórnum hjá ykkur.

En mér datt si svona í hug að skjóta því að ykkur að það er hægt að nálgast hlutina á annan hátt. Hvernig væri að halda nú fundi í verkalýðsfélögunum og ræða ástandið dálítið ítarlega - og virkja verkafólk beint til barátt?

Er það ekki leiðin - eða eruð þið hræddir um að eitthvað fari úrskeiðis ef verkafólkið verður virkt í félögunum? Á öll virkni verkalýðshreyfingarinnar að takmarkast við skrifstofustólana á skrifstofu ASÍ eða hvað?

Sveinn.




Eftir að flokksstofnunin var gerð opinber hefur orðið umtalsverð aukning áskrifta. Þannig fékk Straumsvíkursella 7 áskriftir á tveimur dögum yfir páskana, og úr Kópavogi komu 4 áskriftir. En betur má ef duga skal, og við hvetjum alla velunnara blaðsins og Kommúnistaflokks Íslands /ml að leggja sitt af mörkum til að ná sem bestum árangri í söfnununni. Líka viljum við beina því til þeirra sem enn skulda áskriftir að borga sem fyrst.

Greiðslum og nýjum áskriftum má skila til okkar á eftirfarandi hátt:
Til pósthólfs 1357, Rvík.
Á gíróreikning 27810,
Til Rauðu Stjörnunnar, Lindargötu 15. Tekið er við áskriftum í síma 27810 kl. 15-18.30 virka daga.